# Lík-ræda,

haldin

vid

Jardarfør

Madame

# Þórunnar Sigmundsdóttur Móberg,

af

Herra Bjarna Arngrímssyni,

Sóknar-presti til Mela og Leirár Safnada,

þann 14da Decembr. 1805.

---

Leirárgørdum, 1806.

Prentud af Bókþryckjara G. Schagfjord.

## Uti er Þraut, þá unnin er!

Það má hvørr sá fagnandi segja og sanna, sem átt hefir í einhvørjum þúngsla-þrautum að berjast, er hann farsællega náði að yfirvinna, og því þúngri Þrautin var, því meiri atorku og erfiðismuni, ablraun og áhuga sem það kostaði, að fá hana unna, og því meira, sem undir farsælli yfirvinníngu ennar sömu komið var, þess frægari eru endalokin, þess veglegri sigurinn, þess gladari endurminníng vel afstaðinnar mædu, og því fagnaðarsælli og fullkomnari í sjálfum ser, kann yfirvinnarinn sálum sigri að hrósa með þessum orðum: úti er Þraut, þá unnin er! En — svo margar og margbreyttar Þrautir þær eru, sem manneskjan hefir við að berjast, meðan hennar stríðs-dagar vara hjer á jörðunni; Þrautir, sem ángra og óróa sálina; Þrautir, sem sorma uppá og niðurbrjóta líkamann; Þrautir, sem vorar ráðríku fýsnir, vorar ómettanlegu óskir, vorar óstýrilátu girndir og tilhneigíngar baka oss; Þrautir, sem að utan frá berast á oss af hlutum þeim, er vjer daglega hljótum að umgángast og í kríngum oss eru í heiminum; Þrautir, sem fylgja hvørju standi, hvørjum lífskjörum, hvørjum aldri jafnvel; Þrautir, er vjer, sem manneskjur, yfir höfuð, og sem kristnir serílagi, höfum í að mæðast, nú sem borgarar mannlegs samqvæmis, nú sem yfirboðnir eða undirgefnir, eða ekta-

makar, foreldrar, húsfedur, og sv. fr. — svo marg-víslegar allar þessar Þrautir eru, segi eg, er þó ein Þrautin þýngst af øllum, óumflýanleguft, vandasømust ad vinna, en þó mestu vardandi ad vel se unnin, því þá fyrst er øll Þraut úti, þegar þessi er unnin vel, þad er: ad deya; þetta er þvilík þýngsta Þraut, sem gjørvalla ena lifandi skepnu hryll-ir vid; Þraut, sem krefur, já! krefur vægdarlaust, hinn dýrasta hlut, hid dýrasta offur, sem náttúran á til, þad er: lífid; ad yfirvinna þessa miklu Þraut, ad leggja svo kostulegann, svo óapturfáanlegann dýr-grip, sem lífid er, í sølurnar, í einu ordi: ad deya, þad er Þrautin øllum Þrautum þýngri, já! því þýngri, sem hún er óumflýanlegri, sem meira og lángvinnara af því leidir, hvernin hún er unnin, svo þá megi med sanni segjast: úti er Þraut, þá unnin er; því eins og enginn kann sæll ad segjast fyrir sitt enda-dægur, svo kann heldur enginn hólpinn ad heita, sem enn nú á þessa mestu og sídurstu og mikilvægustu Þraut eptir ó-unna, vel unna, vel til lykta leidda, og þad gjetur eng-inn, nema sá, sem lengi ádur hefir vandlega búid sig undir þad; sá, sem ádur æfdur í mørgum Þrautum, lært hefir ad deya, ádur hann dó; hann einn má seg-jast sæll, hann einn hefir farsællega unnid allar líffins-allar sjúkdóms- allar Daudans-þrautir; hann einn fær í daudanum hrósad fullkomnum sigri og sagt: úti er Þraut, þá unnin er, mínar naudir og þraut-

ir

ir og öll jarðnesk armæða er úti og að eilífu á enda komin, mitt stríð krónað með sigri, mínar sorgir deyddar í mínum dauða, Guði sé lof! úti er Þraut, því unnin er!

Þessum svo veglegum, svo fagnaðarsælum stríðs- og þrauta-lokum hefir Þú náð, frelsaða sál! hvörrar jarðnesku leyfar þar liggja fyrir augum vorum, inniluktar í þessari lík-kistu; margar vóru víst Þínar lífs-þrautir, er Þú hlaust í að mæðast, sem manneskja, og þó enn framar, sem kristin manneskja, er kappkostaði að vanda sig til orða og athafna, í öllu sínu dagfari fyrir Guði og mönnum; Þrautir, sem móður-nafnið og skyldan við 2 dætur, er Þú fæddir og enn nú lifa, lagði Þjer á herðar; Þrautir, sem ektaskapar og hússtjórnar lífið með sér ber, og undir hvörjum Þú samsveittist Þínum nú harmandi, eptirþreyjandi ekta-kjæasta full 26 ár, varst hans yndi og aðstoð, huggun og harma-léttir í sameginlegum lífsins sorgum, uns sjúkdóms- og bana-sóttar sáru þrautir afleystu þær, og buðu Þjer búast við Þinni síðurstu dauðans Þraut, sem enda skyldi allar Þínar lífs-raunir, og opna Þjer aðgáng til hinna miklu verðlauna, sem heitin eru vönduðu líferni, hvílíku, sem Þitt var í heiminum.

Eða,

Eda — hvørr þeckti sá til Mad. Þórunnar heitinnar Sigmundsdóttur Móberg og adgiætti hennar dagfar, sem ecki sannadi hana vandada Dánu-konu til orda og verka, ætíd hægláta, stillta, sidsama, ordvara, slundur- og afskipta-lausa um annara hagi, en því betur rækjandi sitt egid litla med kyrrlátu spaklyndi, notinyrkni, hagsemi og hreinlæti; med þessum og þvílíkum mannkostum ávann hún ser hvørvetna gódann ordstýr; ávann elsku og virdíngu síns ekta-hjarta; ávann hylli og gódann þocka annara úti frá, er til hennar þecktu og hún hafdi umgengni med; ávann hinn dýrmætasta fiesjódinn, er daudlegir ødlast kunna, vitnisburd gódrar samvitsku um grandvart liserni, um þad, hún væri Guds-barn; ávann sigur yfir øllum medlætis ginningum, øllum mótlætis ástrídum, í einu ordi, yfir øllum lífsins óstødugleika; úti er sú Þraut, því unnin er hún.

Hvørr þeckir sá óværdir þær og ángursemdir, krøm og þjáníngar, er sóttum og sjúkdómum fylgja, sem ecki vidurkienni, ad ef í nockrum raunum þarf á støduglyndi halda, þá einkum í sjúkdómsins þýngsta þrautum, enda sannadi vor Sáluga þetta best med sínu dæmi, er hún fullar 15 vikur mátti sárlega, opt værdarlítid stynja undir harmqvælafullum bana-sjúkdómi, mátti daglega finna sína krapta uppþorna, mátti hvørt augnablik þessa lángvinna armædu-tíma, búast vid daud-

daudans áföllum; undir þessum sáru lídunum, sýndi hún, þvílíkt þolgjædi og stödugl ynd i, ad ecki eitt óþolinmædis ord heyrdist af hennar munni, med gladri von og trúar athvarfi til Guds nádugu forsjónar handleidslu og stjórnunar, med iduglegri bæn og trúaröruggum andvörpunum til hans, er hana af daudanum og í daudanum frelsa kunni, beid hún þolgód síns sídarsta, og kappkostadi þannig ad gjöra ser þad sem bærilegast, sem fullkomna endurlausn frá allri fallvalltri veru lífs þessa, fullkomna endingu allra hennar lífs- og sjúkdóms og daudans þrauta. Í þessu tilliti medtók hún síns Lausnara Jesú Krists Qvöldmáltíd, þann 15da September. nærstlidna og beid þannig styrkt í trúnni og voninni til Guds óendanlegu nádar, styrkt med síns Endurlausnara kross-dæmi, þess augnabliks, á hvorju hún til fulls fengi ad leysast hier frá og vera med honum, sem hún launguunarfull eptirþrádi, og sem hún nú loks ödladist fyrir hægt og sáluhjálplegt andlát þann 5ta þessa mánadar, þá hún fól sína önd í Födursins hendur, og undireins qvaddi heim þenna med öllum hans umbreytíngum, mædum og þrautum; qvaddi sinn Ektakjærasta og fól hann Guds födurlegu umhyggju, huggun og handleidslu, þad eptir væri hans stríds-daga; qvaddi sitt lengi hrjáda og nú loks nidurbrotna líkhams hreysi, og fól þad Ydar eptirlifendum kjærleiksfullu umönnun til sómasamlegrar Guds-barna greptrunar, med þessari Grafskrift: úti er öll sjúkdóms- öll daud-

ans-þraut, unnin er hún — enginn daudi fram-ar!

Þannig hefir Mad. Þórun heitin Sigmundsdóttur Móberg, lagdt frá ser sinn pila-gríms-staf; þannig farsællega útendad sína 66 ára lángvinnu útlegdar-reisu frá vøggunni til grafarinnar; þannig fullkomlega sannad alla Þraut úti, þá hún vel unnin er; þannig med sínu dæmi bendt oss eptirlifendum, sem enn þá egum margar og miklar Þrautir máske eptir óunnar, og allir siálfsagdt þá miklu óumflýanlegu Þrautina: ad deya; bendt hefir hún oss: ad vier svo víslega gánga skyldum á móti vorum Þrautum, svo kristnum verduglega færa oss þær í nyt til lærdóms og vareygdar á lífsleidinni, og svo vasklega med þolinmædi yfirvinna þær, ad þegar vier loks gánga egum daudanum á móti, loks yfirvinna skulum vora sídurstu Þraut, ad vier þá mættum med gladri von og gódri samvitsku hrósa sælum sigri yfir velunnum øllum þrautum, baráttum og raunum lífs þessa, sem þá hefdu ad eilífu enda med vorum dauda, en vier innleidast í þá ómengudu gledi og fagnadarsæla líf vid Drottins hægri hønd, sem endalaus eilífd hefir þeim geymt ad launum, er hier hafa barist gódri baráttu, vardveitt trúna og góda samvitsku til æfiloka, hier hafa erfidad trúlega, lidid þolinmódlega, lifad hreinferduglega, riettvíslega og gudlega í heiminum, vareygdar-sam-

samir í medlæti, en þolgódir í þrautunum; þvílíkum einum mun ad sídurstu vel vegna, þvílíkum verdur daudinn velkominn vinur, sem leidbeinir þeim úr ólgu sjónum inná væra og óhulta fridarins höfn; úr útlegdinni inní födurlandid; úr baráttunni til medtöku sigursins veglegu verdlauna í Guds dýrdar-himni. Æ! Gud giefi oss öllum af nád sinni fyrir Jesúm Krist, svo ad haga vorri strídsadferd hjer, ad vjer á sídan mættum med Þier, frelsada Sál! og öllum Guds útvöldum, þvílíkum æskilegum strídslokum fagna, æ! þá er öll vor Þraut úti og unnin vel!





Graf-

## Graffkrift.

Goldin. Er. Skuld. Sú,
Er. Greidaft. Atti.
Náttúrunni.
Af. Nidja. Hennar!
Md. ÞORUNNI. SIGMUNDSDOTTUR.
MOBERG.
Fæddri. Ar. Aldar. Ennar. Atjándu.
XIXda' Yfir. Tugi. Tvenna.
Endurkalladri Og. Eymd. Vidfkila.
Vta. Decembris. Ens Vta. Ars.
Nyfæddrar. Aldar.
XIXdu *Krifts*.

Veik þar úr ranni,
Vöndud Kona
Hæglát, ftillt
I hegdun allri;
Gud elfkandi
Og góda Sidu;
Uti er Þraut hennar
Og unnin vel!

B. A.



(Bjarni Arngr-son.)

## Grafskrift:

Hér liggur
Góð Kona og guðhrædd,
Þórun Sigmundsdóttir;
Fædd Arið 1739.
Giptist 1779
Bókþryckjara-Sveini
Magnúsi Móberg,
Abladi med honum tveggja Dætra,
Málfrídar og Gudrúnar,
Deydi 5ta Decembr. 1805.

Hún var
Dygdug og Drottinn-holl.
Rækti skyldur med skapserdi ljúfu.
Hatadi lesti, en hlýdnadist Gudi.
Elskadi Ektamann, og unnti Börnum.
Var þrifin og hyrdtin, hagsýn og góðráð.
Stundadi sóma til Dánar-dægurs.

G. S. Hdgfin



Borgfirdinger

